# Dagsbrún.

*Mánaðarrit til stuðnings frjálslegri trúarskoðun.*

*Ritstjóri:* MAGN. J. SKAPTASON.

I. | GIMLI, MAN. ágúst 1893. | 8.


## Morgun.

NÚ fjallabrúnir fríðar ljóma, roða,
en fegri myndir rísa í huga innst.
Hvort skal þá milda morgunljósið boða
hið mikla ljós, er verður allra hinnst?

Því hvað svo er, mun bregða blæju svartri
að birta margt, sem áður fólgið var,
er sál vor eygir sól af sólu bjartri,
er sveif hér ofar dauðans köldum mar.

Já hvort skal milda morgunljósið boða,
að máni renni og sól við skýjahring,
á einni stund hin bleiku blöð að roða,
er brotin lágu í sekt og fordæming.

Því meðan sól í sævardjúpi blundar,
er sorgin dögg, er grætur jarðarbrá
og svífur burt mót himni hádags-stundar,
og hýrleg gleði skín um hvert eitt strá.

*X*

# BINDINDI.

Menn hafa mikið rætt um bindindi, nú á seinni tímum og margt sannarlega fagrt hefir á nýrri tímum verið framkvæmt í því máli. Forkólfar þjóðanna hafa prédikað það, hafa sjálfir gengið á undân með loflegu eftirdæmi, og sýnt öðrum leiðina, sem þræða skal í því máli. Þetta er og verðr eitt aðal atriði í allri bindindis-hreifing, það er ekki nóg, að prédika, það er ekki nóg, að hamra á lestinum, það er ekki nóg, að úthúða þessum og þessum manni, eða þessum og þessum glæp, það verðr að leggja fram dæmið. Menn verða að taka höndum saman, hver og einn, sem í sannleika vill styðja að vellíðan mannkynsins, sem styðja vill að því, að mönnunum líði betr, sem styðja vill að því, að velsæld eflist á heimilum manna, að tötrarnir verði færri, að fátæktin verði minni, að sambúðin verði kærleiksríkari, að ánægjan verði fyllri, að gleðin verði hreinni, að eymdin eg vesöldin minnki, allir þeir verða að taka höndum saman, að hjálpast að, hver með öðrum, að útrýma vín-nautn úr hugsunar-hætti manna, að fyrirbyggja notkun þess. Það má oft spilla góðu máli með rangri aðferð, og hefi ég séð það á þessu eins og öðru. Ég hefi heyrt og séð bindindis-postulana halda ákafar ræður um bind-indi, og færa til sönnunar sínu máli heila hópana af ritningarstöðum þeir eiga allir illa að fara, þeir eru djöfulsins uppkveikja, sem víns ins neyta, en slíkt er ekki til annars, en að spilla fyrir málinu, það kemr í menn kergja. Þeir, sem nokkuð hafa litið í ritninguna, þeir vita það vel, að eins má sanna það af henni, að vín sé leyfilegt, eins og óleyfilegt. Nói varð fullr, Jósep varð fullr, Salómon lofar vínið, Kristr breytti vatni í vín, Eitt af bríxlyrðum þeim, sem Farí-sear báru á hann, var eftir Krists eigin orðum, að hann væri vín-svelgr. Það hefir eðlilega verið lýgi, sem annað, er þeir báru á hann, en það sýnir það, að vín hefir þá verið notað, enda var vín notað við kvöldmáltíðina. Lúther drakk, Grundtvig drakk, yfirhöf-uð hefir fjöldi manna neytt víns. Mér var einu sinni eftir að ég kom hingað send bók ein á stærð við hálfa Pétrs postillu og var hún öll upptalning á ritningarstöðum þeim, er sönnuðu, að leyfilegt

og rétt væri, að neyta víns, og síðan ég sá þá bók, þá hefir mér ekki litist á það, þegar menn eru að sanna skaðsemi ofdrykkjunnar með ritningarstöðum. Vér þurfum ekki að fara þangað, til þess að sjá það, að vér ekki eigum að neyta víns. Vér þurfum ekki annað, en að líta í kringum oss. Sé það oft og mikiðum hönd haft, þá eyðir það fénu, veikir líkamann, sljófgar sálina. Verðr þá hvorki líkami né sál fær um, að gegna störfum sínum eins eftir sem áðr. Minnið sljófgast, menn verða oft þunglyndir og dutlungafullir önugir og stirðir í lund. Oft er það, að heimilisfriðnum er hætta búin, þar sem vín-nautn keyrir úr hófi, það veldr sundr þykkju milli hjóna og vina. Oft heyra menn talað um meðalhófið, menn nefna það gullvægt og ritningin segir, að vín í hófi gleðji mannsins hjarta, enda liggr það í augum uppi, að sé þess hóflega neytt, þá er það ein af Guðs góðum gáfum—en hlutrinn er, að það er vandratað þetta gullvæga meðalhóf. Meðalhófið er æfinlega vandfundið í hverju einu og hvað vínið snertið, þá sýnir reynsla mannanna, að það er kannske ekki einn af hundraði, sem finnr það og getr haldið því. Vínið hefir þann töfrandi kraft, að sá, sem fer að neyta þess, leiðist smátt og smátt, eins og ósjálfrátt til þess, að neyta þess einlægt meira og meira, eitt glasið teymir annað á eftir sér, menn þykjast verða svo fjörugir og farsælir við nautn þess, það verkar á alt taugakerfið, og þar af leiðandi á ímyndunaraflið. Það setr allar taugar í einhvern æsing, svo menn finna ekki til neinnar mæðu eða mótlætis, mönnum finnst alt svo fagrt og yndislegt í heiminum, menn finna svo mikið fjör og þrótt streyma gegnum æðar sér, að þeim finnst ekkert ókleyft, en þetta varir ekki nema um stund, Hver æsing deyfir taugakerfið, hefir eyðileggjandi áhrif á manninn eftir á. Taugarnar oftaka sig og þær verða lengi að ná sér aftr, og því tíðar, sem þetta kemr fyrir, því lengri verða hin eyðileggjandi áhrif, sem það hefir eftir á; og það sem athugaverðast er, er það að því oftar, sem þetta kemr fyrir, því hættara er manninum til þess, að halda áfram. Þessi ginnandi töfraáhrif vínsins vaka fyrir sjónum manna og leiða þá oftlega hálfnauðuga og móti betri vitund til þess, að neyta þess. Þeir hugsa sér kannske, og það er mjög oft, að nú skuli þeir aðeins hressa sig, svo skuli þeir hætta, en þeir gá ekki að því, þeir taka ekki eftir því, fyr en þeir eru búnir að hressa sig ofmikið. Þetta er einmitt það, sem hættulegast er við vínið, þetta

er það, sem svo mörgum hefir komið á kaldan klakann. Án þess menn viti nokkuð af því eru menn orðnir drukknir, án þess menn viti nokkuð af því eru menn, sem verið hafa og hafa og alla tíð ætlað sér, að verða hófsmenn, orðnir ofdrykkjumenn. Þetta er vanalegi ásteytingarsteinninn, sem flestir falla um. Við þessu þarf varhuga að gjalda, en þegar menn gæta þess, hvernig þetta læðist að manni smátt og smátt, ginnandi og tælandi, ekki með neinum ógnum eða frekju, heldr svo ofr laðandi, dragandi upp ljómandi myndir gleðinnar og unaðsemdanna, einhverskonar paradísarsælu hér á jörðu, þá sér maðr, að það er best að hætta sér ekki út á þennan ís, hann er svo háll, en renni maðr sér fótskriðu á honum, þá er óvíst hvar maðr stöðvast, Þessvegna er besta ráðið, að eiga ekkert við það, það er engin þraut, að halda sér frá því, ef menn aldrei venja sig á það, en svo erfitt að hætta þegar vaninn er kominn á, að öllum þorra manna hefir orðið það ofraun, Hvað hófið og hófsmennina snertir, þá er það ekki sagt í þeim skilningi að lasta þá, að segja, að það séu þeir, sem að mörgu leiti skapi drykkjumennina. Það má held ég óhætt segja að enginn sé sá drykkjumaðr, sem ekki hafi um tíma verið hófsmaðr á æfi sinni. Menn verða ekki ofdrykkjumenn á svipstundu, heldr smátt og smátt. Hófið minnkar smámsaman, mánuð eftir mánuð, ár eftir ár, uns það verðr hófleysa, og svo er hitt, að hófsmennirnirnir teyma hina, sem óreyndir eru, út á þenna hála ís, sem öllum hættir svo við, að skripla á og missa fótanna, þeir gefa öðrum þetta eftirdæmi, sem reynsla mannkynsins segir oss, enginn ætti að freista. Sökum þessa ætti hver og einn, að taka sér það fyrir reglu, að smakka aldrei vín. Menn geta glaðst fyrir því og leikið sér, og menn eru þá lausir við öll þau eftirköst, sem vínnautnin hefir í för með sér. Ég fyrir mitt leyti kysi helst, að stjórnir ríkjanna tækju fyrir tilbúning og sölu allra áfengra drykkja, það ættu þær að geta, og þær ættu, að sjá skyldu sína gagnvart mannfélaginu í því, að gjöra það; en það vill nú vera svo með þessi stjórnarráð, eins og blessaða prestana, þau þurfa einhversstaðar að fá fé að, þau eru oft í kröggum og þurfa að ná því inn með öllu mögulegu móti. Þegar kaþólskir voru að selja syndakvittanirnar forðum, þá sögðu þeir, að sálirnar skryppu úr hreinsunareldinum, þegar silfrið hringlaði í buddunni, en stjórnarráðin (ég vil ekki tilnefna klerkana, langt frá!) þau hirða ekki um það, þó náunginn

sökkvi í eymd niðr, ef aðeins víntollrinn hringlar í vösum þeirra. Þessu er nú ekki að fagna, vér þurfum ekki að búast við, að stjórnirnar banni aðflutning eða tilbúning víns, og því verðr það besta ráðið, að ganga í bindindi með alla vínnautn, Vinnum því saman og styðjum það á allan hátt sem vér getum. Með því eflum vér velferð mannfélagsins, með því eflum vér vora eigin heill. Mæðrnar ættu að innræta hjá börnum sínum óbeit á víninu, feðrnir ættu að ganga á undan þeim með góðu eftirdæmi. Vinr ætti að styðja vin til þess að hafna því, Hófsmenninrir ættu að ganga fremstir í flokki og neyta sér um alla vínnautn. Ef menn vinna að því í réttum anda og með öflugu fylgi, að útrýma vínnautn, þá ætti það að takast. Látum því vinir héðanaf það vera eitt af málum þeim, sem hinn frjálslyndi flokkr berst fyrir að eyða ofnautn víns en leiða bindindi inn í staðinn, Góðu máli gefr Guð sigr, ef vel er fylgt.

---

# Í FROSTINU.

*JÓLASAGA.*

Eftir *Z.*

---

Garða þorpið var eitt af þessum þorpum, sem nýlega var farið að byggjast, húsin stóðu því ekki sem reglulegast hvert innan um annað, með nokkru millibili og var alveg ekki laust við, að manni gæti komið til hugar eitthvert ósamlyndi—að þessi strjálbygðu hús litu hornauga hvert til annars á sléttunni eyðilegu, næðingssömu, skóglausri lengst út í fjarska.— Himininn var myrkr og skýþungr með frostnæðingi, enda komið kvöld—jólakvöld. Þorpsbúarnir voru líka sestir að, að minnsta kosti sást enginn af þeim á milli húsanna enda kusu víst flestir að halda jólin inni þetta kvöld. Og jólaljósin voru löngu kveikt og köstuðu bjarma gengum tjaldaða gluggana á snjóinn, sem roðnaði—en var kaldr sem áðr.—

Jólin eru nú samt hátíð fátæklinganna, sem verða að sætta sig við molana, sem detta af borðum annara, og hvervetna er skift–

ing kjaranna, jafnvel meðal nýbyggjendanna, sem hafa flutt sig af einum stað á annan, af því þeir héldu að hann væri betri.

Hún Steinunn gamla, vankaði niðrsetningrinn, sem var send yfir hafið á sveitarkostnað, átti ekki mikið afgangs matvælum til jólanna, þegar þau nálguðust, en af því henni var ekki grunlaust um, að hún kynni að hafa meira upp úr því að vera á ferli í síðasta mund um jólin og halda áðr kyrru fyrir alla jólavikuna; gerði hún það, því hátíð frelsarans varð hún að halda upp á, eins og aðrir, enda átti hann það skilið, að Steinunni gömlu fannst, jafnframt því sem hann var fátækr sjálfr eins og hún. Hún vildi því gera alt hvað hún gat. Máske var Steinunn eini fátæklingrinn, er valdi sér jólin, sem hentugasta áskotnings tíð af svona lagaðri ástæðu, en eigi að síðr var það fordildarlaus hugsun, að reyna að láta ekki fæðingarstund hans, sem var henni eina líknin í bágindum líða hjá, eins og ekkert væri um að vera,hans,sem verndaði hana frá allri hættu, líkamlegri og andlegri, hans, sem þó var eins fátækr og hún vesalingurinn; það var nú auðvitað dálítið annað, að láta sér líða illa, af því maðr sjálfr vildi það, en það er heldr ekki hægt að afsaka sveitarfélög fremr en annað, sem enga spádómsgáfu hefir, þótt þeim verði það á, að létta á sér byrðinni, með því að senda af sér ómaga, sem eiga efnaða ættinga á lífi.—

Já! um jólin, jafnvel þótt fáu sé líft úti, eru fátæklingarnir á ferð, eins í smáþorpunum sem annarsstaðar; sumir án þess, að hugsa mikið um Betlehemsbarnið og líkn og vernd í sambandi við það, en allir með þeirri sameiginlegu, þörfu hugsan fyrir sjálfa sig, að ekki sé annar tími vænni, að láta sér verða vel til —en jólin.—

Steinunn gamla var á ferli Þetta kvöld, aðfangadagskveld jóla. En henni hafði ekki orðið mikið ágengt. Því vék einhvernveginn svo kynlega við með flesta, sem hún fann, að enginn bugaði svo miklu að henni, sem volgum drykk, þegar hún barði að dyrum, auk heldr öðru meiru; en hún var heldr ekki að slóra lengi eftir að svarið var fengið, þangað til henni var boðið inn eða vísað burtu, af því fólkinu leiddist að sjá hana kringum húsin hjá sér; hún fór undir eins eftir að hafa beðið um fisk eða kjötbita með sér, hvort heldr henni varð mikið eða lítið ágengt. Og Steinunn gamla skyldi ekkert í, hvað sér yrði illa til nú; stóð þó nú ekki yfir stund, sem átti að gera hjörtun uppljúkanlegri fyrir fátæktinni, þegar hún berði á dyr, utan úr kuldanum? Hafði hún þó ekki einmitt verið að reyna af fremsta megni, að halda sér kyrri heima alla undanfarna viku til þess sér yrði því betr ágengt, þegar hún legði á stað? Eða kom

þessi stakleiki fólksins til af því, að það héldi, að hún væri búin að snýkja sér saman svo mikinn forða, kannske margra mánaða forða, og að hún kæmi að biðja að gefa sér, af því hún fengi aldrei nóg, eins og sumir aðrir, sem kæmust upp á að lifa á gjöfum annara. Henni kom til hugar, að fólkið mundi hugsa svo, af því hún hafði reynt að halda kyrru fyrir í viku og ekki látið sjá sig. Það lág næst fyrir hana, að hugsa það, því jólaboðskaprinn gat þó aldrei haft þá verkun; að gjöra hjörtun mannanna, enn steingervingslegri, ef hann á annað borð hefði nokkur sönn áhrif.—Þegar Steinunn gamla var búin að afljúka sér í flestum húsum og hafði víðast orðið svipað ágengt, var dagsett fyrir löngu. Það var samt eitt hús eftir, sem ekki var reynt enn og þangað hugkvæmdist henni að fara, því bæði var hún orðin þreytt, þótt takast mætti að ná heim, ef strax væri farið, og svo var hitt, sem var svo þungbært, að koma heim aftr tómhent. Það gat þó naumast verið um minni mannúð hjá neinum að tala, skyldum og vandalausum en þá að lofa göngumóðum vesaling, sem langt átti heim, að hvílast í húsum sínum, og svo var ekki að vita að viðtökurnar færu á sömu leið og einu sinni áðr.

Og Steinunn gamla hökti út af snjóbrautinni inn á milli tveggja húsa, sem voru hrein undantekning þarna, hvað það snerti, að standa því nær fast saman, og lagði niðr pokann sem hún bar einmitt af því, og svo af hinu, að þau sneru saman myrku hliðunum, svo henni var það óhætt; hún var að búast um til að geta komið sem enn einlægari, sannari þurfalingr að þessum húsdyrum áðr umtöluðu, skamt þarna burtu.— Það var óglögt, sem hún heyrði fyrst; mæðin og ellin gerði henni næstum ómögulegt, að heyra hvað verið var að fara með inni, og þó nam hún staðar til að hlusta á leiðinni meðfram húshliðinni; því aðrar dyrnar af tveimum eru oftast dyr sem fátæklingrinn áræðir að bera upp hagi sína. Var ekki, sem henni heyrðist, að verið væri að lesa húslestr inni fyrir og að það væri hljómrinn af honum, sem hún heyrði? Hún lagði eyrað fast að freðinni rúðunni til að ganga úr skugga um það. Hana þyrsti eftir að heyra minnst frelsara síns þetta kveld og það brá gleðiljósi yfir andlitið snöggvast—andlitið skorpna og hrukkótta, en því miðr þagnaði alt aftr, þegar síðustu orðin sem hún heyrði af húslestri prestsins voru lesin til enda: „Það sem þér gerið einum af mínum minnstu meðbræðrum, það gerið þér mér.“ Undr voru þau nú samt gleðjandi þessi orð, friðandi, huggandi fyrir vesalinginn, sem varð að lifa á gjöfum annara, einmitt hinna sömu, er létu þau sér um munn fara til sjálfsagðrar eftirbreytni í hjálpseminni við munaðar-

lausa aumingja aðra eins og hana, því annars voru þau þýðingarlaus. Svo var farið að syngja. Blíði, viðkvæmi, jóla-sálmrinn lét í eyrum hennar eins og Betlehems-hirðanna, er þeir heyrðu raddir englanna, og Steinunn gamla fyltist vonsælli gleði, er rann gegnum sál hennar eins og vorylr freðna jörð; og hún greip undir með þeim, sem voru að syngja. Skjálfandi, veikhljóðuð í helkalda frostinu þessa jóladagsvöku reyndi hún—gat hún ekki annað, en lofað Betlehems barnið með öðrum, sem henni fannst að hlytu að skilja jólaboðskapinn fallega, mannkærleiksríka, himneska boðskapinn um ást og ósérplægni. Og svo söng hún. Og fyrst var röddin veik,en smám saman varð hún styrkvari og fyllingarmeiri og loks há og skær sem barst út um þorpið dimt og þögult, og bergmálaði út um kaldan vetrargeyminn. Hún hafði fyrst reynt að líkjast hinum, en svo réði hún ekki lengr við sig og söng eins og hjarta og tilfinningin sagði henni, því hún hugsaði um ekkert annað, en hann, sem líknaði fátækum og rétti nauðstöddum hjálparhönd, sem hafði fæðst á þessari stundu, og hún hafði hreint gleymt sér hvar hún var stödd, og lét rödd, sem kom frá hjartanu, rödd, sem hafði ekkert við sig nema einlægni, eymd og hróp um neyðarkjör, sem lýsti sér í henni, fá ráðrúm. Svo þagnaði hún alt í einu. Það hafði einhver heyrt sönginn og það var eins og Steinunn gamla vaknaði af þungum svefni, er henni var skipað burtu með harðri hendi, og einhver var að ávíta hana fyrir að spilla helgi jólanætrinnar. Mátti hún þá kannske ekki lofa frelsarann eins og aðrir, hann sem öllu vildi gott gera, og ekkert mátti aumt sjá, sem fæðst hafði á þessu kveldi, eða mátti hún það kannske ekki, af því hún var öreigi og ósjálfbjarga, eða varð að leita á náðir annara? Og henni fannst meira til um bágindi, en nokkru sinni áðr. Samt gat hún ekki að því gert,henni fannst hún þekkja sömu röddina aftr, sem bar fram fallegu friðandi orðin: „Það, sem þér gerið einum af mínum minnstu bræðrum, það gerið þér mér.“ Og það var það, og ískuldinn, sem greip hana aftr tökum eftir hlýindin, er jólaboðskaprinn flytr þeim, er skilja hann réttilega—eftir orðin, sem hún heyrði um gluggann: „Það sem þér gerið einum af mínum minnstu bræðrum það gerið þér mér.“ Það var það, sem einkum gerði, að Steinunn eins og vaknaði af draumi við hörðu burtvísunar-röddina, sem henni hafði fundist á sama augnabliki, koma frá svo mannúðarfullu brjósti. En hún hafði engan tíma, til að segja neitt, og hún flýtti sér að hökta eins títt og hún fékk orkað, í burtu aftr sömu leiðina. — —

Snemma þetta kveld, höfðu verið farin að detta niðr snjókorn

á stangli, hörð, en þó smá, en alt af óx snjókorna-fjöldinn og alt a f varð þyngri vindgustrinn, sem strauk með þau inn á milli húsanna í þorpinu og fleygði þeim þar niðr þungt og kaldranalega á fönnina, sótti svo önnur ný, að vörmu spori til að leggja við hlið hinna, svo bráðum myndaðist grá-hvít blæja ofan á gömlu fönninni, sem var orðin dálítið hjálit, af því hún var eldri, og vindrinn sótti alt af fleiri og fleiri, bar þau í þéttari hópum, og hóparnir urðu alt af þéttari, sem þyrluðust aftr og fram milli húsanna, þangað til þeir gripu allir saman í fyllu, sem lagðist svo dimm og köld utan að hverju einasta húsi í þorpinu, að þau steinhættu að geta litið hvert til annars, hornauga. — — —

Þenna jólamorgun sást á gamlan malpoka upp úr skafli, því nær tóman, og hönd, sem læsti sig um hann frostköld, en mögr.— Það var hönd Steinunnar gömlu, niðrsetningsins, beiningarkonunnar, sem send var á sveitarkostnað.— Hún hafði orðið úti á jólanóttina, —einmitt á fæðingarstundu frelsara síns og verndara— skamt frá húsdyrum prestsins, frænda síns, hans séra Friðmundar, sannleiks-post ulans, réttlætissálarinnar, dómarans milda, sem dæmdi jafnt lifandi og dauða, guðsmannsins með kærleiksríka hugarfarið. —

---

# Hugleiðingar um ritninguna.

[Framhald.]

## III.

*Óskeikulleiki ritningarinnar.*

Þegar tala skal um óskeikula ritningu,sem svo margir kenna og trúa á enn þann dag í dag, þá sjáum vér að margt af því, sem þegar er búið að taka fram um það efni, hlýtr algjörlega að eyðileggja óskeikulleikann. Þó að, að eins einn tíundi hluti eða einn hundraðasti hluti af því, sem um það hefir ritað verið væri satt, þá gæti ritningin ekki verið óskeikul. En nú er því svo varið, að það sem búið er að segja í riti þessu um málefni þetta, er ekki einn

þúsundasti hluti af því, er segja mætti eðr af sönnunum þeim, er færa mætti fram móti óskeikulleika ritningarinnar.

Það hlýtr að vera öllum ljóst, að ef að ritningin á að vera óskeikul að uppruna, ef hún á að vera „innblásin,“ þá hljóta og allir þeir að hafa verið innblásnir, er nokkuð hafa um hana fjallað. Þegar sagnir gamla og nýja Testam. gengu lið fram af lið um hundr uð eða þúsundir ára, þá hljóta allir þessir milliliðir, allir þessir sögumenn, að hafa verið innblásnir, lið fram af lið, mann fram af manni, um fleiri aldir. Því setjum nú svo, að bækrnar hafi upphaflega verið ritaðar á svo undarlegan hátt, að hver stafr væri svo sem ritaðr með Guðs fingri, setjum nú svo, að allar þær bækr gamla og nýja Testam., sem mótmælendr forkasta, séu einmitt þær, sem óekta voru og átti að kasta, og að allar hinar bækr ritningarinnar, sem nú eru í henni taldar, séu einmitt þær, sem eiga þar að vera; setjum nú svo, að allar þær bækr ritningarinnar, sem *týndar* eru, hafi óekta verið og snerti því ekkert og dragi ekkert úr gildi safnsins: setjum nú svo, að alt þetta sé þannig, þá er eftir að svara því, hvernig það geti verið, að ritningin sé óskeikul, eins og vér höfum hana í höndum vorum *í dag*, að ekkert hafi haggast, engum staf verið breitt, engri hugmynd sleppt, engri hugmynd bætt inn í, ekkert verið misskilið, engu verið viðaukið alt niðr til vorra tíma. Með öðrum orðum, setjum nú svo, að straumrinn, eins og hann hóf að renna austr í Palestínu 22 eða 20, eða 18 eða 16 öldum síðan, hafi verið óskeikull í fyrstu, hvaða vissu höfum vér fyrir því, að hann, enn þann dag í dag, skuli vera hreinn ómengaðr, eftir að hafa liðað sig niðr um margflókna aldanna braut? Fyrst hljóta ritin að vera óskeikanlega innblásin og rituð, síðan hlýtr söfnun þeirra að hafa verð óskeikul, og svo öll sú leið, er þau hafa orðið að ganga niðr til vorra tíma.

En, er vér förum að íhuga það, hvernig þau hafi komist í gegnum aldirnar óskeikul niðr til vorra tíma, þá ber oss fyrst að skoða það, að upphaflega var meiri hluti ritningarinnar, gamla Test. skrifað á *hebresku máli*. En var nú málið sjálft óskeikult? Umþær mundir, er bækr ritningarinnar voru ritaðar, hafði hið hebreska ritmál *enga hljóðstafi*. Alt, sem ritað var, var ritað hljóðstafalaust, með eintómum samhljóðendum í líkingu við hraðhönd nýrri tíma. Hvernig getnm vér nú hugsað oss óskeikular bækr með þessum rit–

máta? t. d. stafinn b k fyrir bók, eða bak, eða búk, eða bik; orðið bkk fyrir bukk eða búkk eða bykkja eða bekk; orðið s t fyrir sat, eða sút, eða sit, eða sýt(a), eða sót, eða sæt. Því merkin, sem tákna hljóðstafi í hebresku ritmáli, voru ekki innleidd í málið fyr, en eftir daga Krists, að líkindum ekki fyr, en á 7. öld eftir Krist. Svo er vér tökum nú dæmi úr hebreskunni sjálfri, þá er orðið q t l, sem bæði getr verið nafnorð, sagnorð og hluttekningarorð, og sem sögn getr það verið gjörsögn og þolsögn; það getr haft níu mismunandi þýðingar, eftir hljóðstöfum þeim, sem settir eru inn á milli samhljóðendanna. Orðið d.b.h.r. getr haft sex mismunandi þýðingar. Það getr þýtt: „orð", „hann hefir talað", „að tala", „talandi", „það hefir verið talað" og „drepsótt" rétt eftir því, hvaða hljóðstafir eru settir inn á milli. Þetta er nú málið sem hinar innblásnu bækr eru ritaðar á. En nú kemr einn ritarinn og fer að rita eftir annan á þessu sama máli, bækrnar eru ritaðar upp, hvað eftir annað, því ekki skulum vér hugsa oss, að vér höfum hin upphaflegu rit. Getum vér nú verið vissir um að þessir skrifarar, sem skrifuðu upp bækrnar hafi aldrei míslesið, eða misskilið eða misskrifað einn staf? nú á dög um að minnsta kosti eru menn ekki svo snjallir, að þeir geti verið vissir um, að misskrifa ekki eða misprenta ekki eitt eða fleiri orð í stórum bókum.

*Þá eru þýðendurnir.* Voru þeir einnig innblásnir og óskeikulir? Nú á dögum eru þeir fjarri því að vera það. Voru þýðendr á öllum tímum, sem þýtt hafa hebresku ritningarinnar á grísku og latínu og grískuna og latínuna á ensku eða hebreskuna beint á ensku, voru þeir einnig innblásnir, var þeim á yfirnáttúrlegan hátt varnað þess, að gjöra nokkurt misgrip, að rangskrifa nokkurn staf? Ef að svo hefir verið, hvað þýða þá þessir tugir þúsunda af villum í ritningunni, er hin nýja nefnd enskra fræðimanna finnr í hinni ensku biflíu þýðing, er þeir hafa verið settir til að endrskoða. Menn hafa alt til þessa fundið 100,000 mismunandi lesmáta í ritningunni,en ætla þó, að þeir séu enn fleiri, kannske ein hundrað og fimmtíu þúsund lesmátar og hvar er þá innblástrinn? Liggr hann í villunum eða hvað? Innblástrinn hefir runnið sundr, sem reykr í lofti um þenna 2000 ára tíma,hann hefir einlægt þurft að halda áfram mann fram af manni því ef að þessir menn, sem eitthvað hafa fengist við ritninguna ættu að vera innblásnir, hví skyldu þeir þá ekki vera innblásnir líka sra Jón Bjarnason, eða Lárus eða Jónas sál.? En ég held að margir færu

að bæna sig, ef slíku ætti fram að halda. En nú er því svo varið,að í staðinn fyrir óskeikulann innblástr finna menn í ritningunni *alveg hið gagnstæða*, og það innan um hana alla saman. *Sextíu og sex* eiga þær að vera þessar innblásnu bækr! En nú megum vér ekki gleyma því, að þó að vér gætum sannað innblástr einnar eðr fleiri af bókum ritningarinnar, þá væri með því engin sönnun fengin fyrir innblæstri eða óskeikulleika hinna annara bóka, því eins og sýnt hefir verið fram á, þá voru bækrnar upphaflega ekki ein heild, heldr eru þær samtíningr frá fleiri öldum. Ef því ritningin í heild sinni á að vera innblásin, þá hlýtr og hver ein einasta bók hennar að vera innblásin, hlýtr því hver setning bókarinnar að vera innblásin, því villur, eða vitleysur, eða ósannindi eru óhugsandi, þegar um um innblástr er verið að tala, nema það sé þá innblástr af vitleysum. Setjum nú svo, að ég hefði í bókaskáp mínum 66 bækr, sumar skáldrit, sumar í óbundnu máli, sagnfræði, ferðasögur, æfiminningar, bréf, o. s. frv. skrifaðar sín í hvoru landi af mönnum á misjöfnu menntunarstigi,sum ar fyrir 1000 árum síðan, þótt ég gæti nú sannað eitt eðr annað um eina af þessum bókum, hvort dugir sú sönnun um allar hinar? Vissu lega ekki. En þannig er því varið, ritningin er safn af 66 bókum með ýmsu efni og mismunandi uppruna. Hver og ein bók hlýtr því, að standa eðr falla með sjálfri sér. Bækrnar eru ekki ögn skyldari hver annari, þótt þær séu saman í einu bandi, heldr en það væru 66 bækr hver með sínu nafni, og hver bundin út af fyrir sig. Spurningin er því ekki um einn óskeikulleika, eða einn aðalinnblástr, heldr um 66 óskeikulleika eðr 66 innblástra.

Hér hefir lítið verið minnst á aðalagnúana á innblæstrinum, en nú skal taka fátt eitt af því helsta, ef alt ætti til að týna, yrði það ákaflega mikil bók.

1. *Kenningin um innblástrinn finnst ekki í ritningunni og verðr því að leita hennar einhversstaðar annarsstaðar.* Ekki ein einasta af bókum ritningarinnar gjörir kröfu til þess, að vera innblásin. Hinn helsti af þeim sárfáu stöðum og sá, er rétttrúaðir menn treysta á fremr öllum öðrum, er þessi: 2. Tím. 3, 16, „Öll ritning er innblásin af Guði og nytsöm til lærdóms, til sannfæringar gegn mótmælum, til leiðréttingar, til menntunar í réttlæti.“ En, er vér förum að skoða stað þenna nákvæmlega, þá fer eitt og annað að koma fram, sem eyðileggr innblástrshugmyndina. 1. er ekkert talað um óskeikulleika, heldr um innblástr, og getr það verið sitt hvað. Vér þekkjum þá postulana Pétr og Pál, sem álitnir eru innblásnir, en þeir játa það þó sjálfir, að þeim geti skjátlast. En ef að innblásnum mönnum getr skjátlast,hví

getr þá eigi innblásinni bók skjátlast? —2. þegar þetta bréf Páls til Tímót. var skrifað, þá var ekkert nýja Test. til, og engum þá lifandi manni hafði komið það til hugar, að nokkurntíma yrði nokkur bók skrifuð eða saman tekin undir því nafni. Orðin „öll ritningin" getr því aðeins átt við gamla Test.. Ef að því staðr þessi á að sanna nokkurn óskeikulleika, þá á hann að sanna óskeikulleika gamla Test.; —3. en nú getr staðr þessi ekki einu sinni sannað það, því að þýðingin á stað þessum er bersýnilega röng. Hinn gríski frumtexti ætti að leggjast út á þessa leið: „Hver ein ritning, sem er guðdómlega innblásin er nytsöm til lærdóms til sannfæringar." o.s.frv. og svo virðist fornkirkjan hafa skilið hann yfirhöfuð. Sýrlenski textinn, Vulgata, því nær allar hinar gömlu þýðingar, Clemens frá Alexandríu, Theodoretus, Origenes 6 eða 7 sinnum og flestir hinir gömlu kirkjufeðr hafa skilið hann þannig. Hin rómversk-kaþólska kirkja skilr hann á þessa leið, svo skyldi Wyckliffe hann og Tindal og svo er hann þýddr í hinni ensku biflíu frá 1551. En þegar, er menn gefa það eftir, að staðrinn megi skiljast á þessa leið, eða ætti að skiljast þannig, þá er farið alt gildi hans til að sanna óskeikulleika ritningarinnar. Þannig er því þá varið með þenna stað, sem á að vera hin allra-sterkasta sönnun fyrir óskeikulleika ritn.. Svo er og um hina aðra staði í sömu átt, sem allir eru veikari, en þessi. Hver og einn getr séð það, að ritningin sjálf gjörir enga kröfu til þess að vera guðdómlega innblásin.

Menn hafa oft bygt innblástr ritningarinnar á orðatiltækjum eins og þessum: „Og drottinn sagði", „Og Guð talaði þessi orð og sagði" og þessum: „hinir heilögu menn töluðu sem væru þeir innblásnir af heilögum anda." En fyrst er nú það, að athuga, að margt af þessu, sem Guð sjálfr hefir átt að tala, er svo grimdarfult og hrylli legt og ósiðsamlegt, að engum heilvita manni ætti að koma til hugar, að kenna það Guði, slíkt væii hin mesta ósvífni og svo er hitt, að ferðamenn, sem á seinni tímum hafa ferðast um meðal Araba og tekið eftir háttum þeirra, hafa fundið þar sömu orðtækin enn í dag í hversdagslegu lífi þeirra. Þeir flétta orðið og hugmyndina Guð innan um hin hversdagslegustu störf. Komi hallæri og hungursneyð eða drepsótt yfir landið, þá segja þeir: „Drottinn hefir sent mikið hallæri yfir landið"; ef að nautpeningr eða úlfaldar þeirra veikjast, þá segja þeir, að „drottinn hafi slegið fénaðinn með sjúkdómi". Ef að hjarðir þeirra aukast og margfaldast, þá segja þeir að: „drottinn láti þær aukast og margfaldast". Drottinn segir þetta, drottinn lætr þetta og þetta vera svona, drottinn sendir þessa og þessa pláguna. Og ef að Arabar sjálfir færu að semja sögu sinna tíma, þá mundu þeir færa hana í biflíustíl, í stíl hins gamla Testam.. Ef að Araba dreymir eitthvað,

meira að segja, þá segja þeir að „Guð hafi sagt sér þetta í draumi“ líkt og Jósep þegar hann var að dreyma hvað hann ætti að gjöra við Maríu. Þetta og annað eins í ritningunni sýnir aðeins rithàttinn hjá höfundum þessara bóka, en er fjarri því að sanna nokkurn innblástr.

2. Þessi innblástrshugmynd hefir fyrst komið fram á *seinni tím um*. Hinir fyrri kristnu menn þektu ekki þessa ströngu hugmynd seinni tíma manna um innblástrinn, eins og menn nú hugsa sér hann allvíða. Það var fyrst á 16. öld að brydda fór á henni, sjálfir siðbótamennirnir höfðu mjög lítið af henni, og kaþólska kirkjan hefir aldrei getað fallist á hana.

3. Ritningin vottar það sjálf, að hún sé ekki óskeikul, því hún inniheldr margt, sem als ómögulegt er að rýma saman við óskeikulan innblástr.

(Framhald næst.)

---

# Hugmyndir ýmsra þjóða um uppruna heimsins.

(*J. F. Clarke. „Ten great Rel. II.“*)

Kenningin um stöðuga framrás og fullkomnun heimsins er ekki ný, heldr hafa menn fundið hana hjá hinum elstu þjóðum og trúflokkum. Hafa menn að líkindum fyrst vaknað til þeirrar hugsunar við það að hugsa um fræið og eggið. Menn sjá hvernig fræið vex og dafnar fyrir áhrif lofts og jarðar, það stingr rótinni niðr en leggnum upp og framleiðir blóm og ávöxt og fræ, þetta gjörist ekki alt í einu heldr smátt og smátt, það smábætir kompu [Cellu] við kompu, blaði við blað, hægt og hægt heldr það áfram að vaxa, það er ekki að sjá neinn utanað komandi skapandi áhrif, heldr er eins og þessi undarlegi og dularfulli lífskraftr liggi hið innra í fræinu eða plöntunni. Þetta virðist vera lögmálið fyrir öllu hinu lifanda, grösum og dýrum og mönnum. Og sem sönnun fyrir því, að þjóðirnar hafa hugsað sér það þannig má færa til sögurnar um heimsegg

eðr heimsfræ, sem allir hlutir eiga að hafa komið frá og finna má hjá mörgum kynflokkum.

Í Orpheusar sögnunum á tíminn að vera fyrstr af öllu. Af tímanum fæddist Chaos —rúmið— og ether —loftið—, af þeim kom aftr frumeggið og úr því kom Phanes —opinberun als hins sýnilega.— Í lögbók Manu —indversk— er getið um sköpunina, en þar er öllu blandað saman sköpun, útstreymi og framrás, Þar segir svo:

„Alheimrinn var í myrkri, óskiljanlegr, ólýsandi, ófinnanlegr og ófundinn—eins og í djúpum svefni.

Þá kom, kraftrinn, sem einn var til, í allri sinni dýrð og rauf myrkrið, ósýnilegr sjálfr, en gjörandi heiminn sýnilegan, með hinum 5 frumefnum og öðrum efnum."

"Hann, sem hugrinn einn getr gripið, hvers tilveru hin ytri skilningarvit ekki geta fundið, sem er ódeililegr, sem er til frá eilífð, hann sjálfr, sálin allar tilverunnar, hann lýsti í gegnum myrkrið."

"Hann vildi framleiða ýmsar verur af sínu guðlega efni og með hugsun einni skapaði hann vötnin, og lagði í þau fræ til að æxlast."

"Fræið varð að eggi, bjart sem gull, ljómandi sem stjörnur himins með þúsund geislum og í því eggi var hann sjálfr borinn sem Brahma, faðir allra anda."

"Í því eggi sat 'kraftrinn mikli' aðgjörðarlaus í heilt ár, en við lok ársins lét skaparinn eggið klofna í tvennt af sjálfu sér."

"Og af þessum tveim hlutum þess myndaði hann himininn uppi og jörðina niðri."

"Af hinni æðstu sál framleiddi hann sál mannsins, og svo meðvitundina, sem stjórnar huga mannsins."

"Frá hinum æðsta anda streymdi hann út og rann í gegnum hinar minnstu smáagnir hlutanna og skapaði allar skepnur."

Í söngvum Aristophanesar [grískr] lesum vér þetta:

"Hið dimma Chaos og nóttin var til og í fyrstu hinn myrki Erebus og Tartarus; en þá var hvorki jörð né loft, eða himin. Á undan öllu, í hinum óendanlega hring Erebusar framleiddi hin svartvængjaða nótt egg eitt, er ekki var á setið. Þaðan kom svo ástin, móðir ástríðunnar, og sló bak sitt með hinum gullnu vængjum eins og í stórviðris ofsa. Ástin tengðist hinum dimma hvíldarlausa Chaos og framleiddi himininn, jörðina, sjóinn og hinn ódauðlega kynflokk guðanna.

Þannig segir Hesiod [grískr]:

"Í upphafi var Chaos, næst jörðunni með sínn breiða faðm, hinn óhreifanlegi grundvöllr allrar tilveru, hinn víði Tartarus með hyldjúpi sínu og ástin hin fegursta meðal hinna ódauðlegu guða,"

Þannig syngr Ovid {latneskr}:

"Áðr en sjórinn og landið kom í ljós og himininn, er skyggir yfir alt, þá var hinn sami svipr yfiir náttúrunni. Alt var óunnið, ólagað — alt ein hrúga, og kallaðist Chaos. Það var hreyfingarlaus þyngð og fræ hlutanna á ruglingi og blandað saman — engin var sól, ekkert

var tungl, engin var jörðin hangandi í jafnvægi í loftinu, ekkert var hafið, er vefði sig um meginlandið með sínum sterku örmum. Þetta stríð höfuðskepnanna sætti guð og hin velviljaða náttúra og greindi hvað frá öðru, hið fasta frá hinu rennandi, jörðina frá loftinu. Hver svo sem sá guð var, þá skifti hann niðr hlutunum og setti hvern á sinn stað."

En rétt á eftir þessu, þar sem Ovid talar um uppruna mannsins, þá er hann í efa um það, hvort maðrinn hafi verið skapaðr af þessum guðdómlega smið, eða jörðin hafi haldið í sér einhverju himnesku fræi og leitt hann þannig fram, en Prometheus hafi ráðið mynd hans.

Í Orpheus ljóðum er alt leitt af hinu frumlega Chaos og innblæstri ástarinnar, þar segir svo:

"Vér skulum fyrst syngja unaðslegan söng um hið forna Chaos, hvernig himininn, jörðin og sjórinn var myndað af því, einnig um hina skarpvitru ást, sem elst er af öllu og sjálf fullkomin, sem alt þetta hefir framleitt og greint hvað frá öðru."

(Framhald síðar.)

*BORGAÐ hafa „DAGSBRÚN" I. ár.*

| | | |
|---|---|---|
| Jón Sigurðsson | Gimli | $ 1.00 |
| Tómas Björnsson | Geysir | 1.00 |
| Jón Þorsteinsson | Icelandic River | 1.00 |
| B. Magnússon | Keewatin | 1.00 |
| Jón Freemann | Hnausa | 1.00 |
| Jóhann Straumfjörð | Hecla | 1.00 |
| Jóhann P. Sólmundsson | Winnipeg | 1.00 |

„AUSTRI,"

ritstjóri Skapti Jósepsson cand. phil. Ágætt fréttablað, hefir inni að halda skemtandi, fræðandi og vel ritaðar ritgjörðir, og ágætar neðanmáls-sögur. Fæst hjá G. M. Thompson, Gimli. Árg $1,20

Sunnanfari. Útsölumenn SUNNANFARA í Vestrheimi eru Chr. Ólafsson, 575 Main Str., Winnipeg; Sigfús Bergmann, Garðar, N. D.; G. S. Sigurðsson, Minneota, Minn., og G. M. Thompson, Gimli, Man. Hr. Chr. Ólafsson er aðalútsölumaðr blaðsins í Canada og hefir einn útsölu á því í Winnipeg. Verð $1.00.

Útsölumenn blaðsins biðjum vér svo vel gera, að endursenda það af blaðinu, sem þeir hafa ekki von um að seljist.

Hve nær sem kaupendr að „Dagsbrún" skifta um bústað, eru þeir vinsamlega beðnir að senda skriflegt skeyti um það til G. M. Thompson

☞ *G. M. Thompson, er „business manager" og féhirðir fyrir blaðið.*

„DAGSBRÚN" kemr út einu sinni á mánuði hverjum, verð $1.00 um árið í Vestrheimi; á Íslandi Kr. 2.00, greiðist fyrir fram. Send til Íslands en borguð hér $0.75.——Skrifstofa blaðsins er hjá Magn. J. Skaptason, Gimli, Man. Canada.

*Prentað hjá G. M. Thompson—Gimli*